# Æfi- og Utfarar-Minning

fyrrveranda

Stiptamtmanns yfir Islandi,

Herra

# Olafs Stephensens.

---

Á Prent útgéfin

af

Börnum Hans.




---

Videyar Klaustri, 1820.

Prentud af Faktóri og Bókþryckiara
G. J. Schagfjord.



# Til Lesarans.

Orsakirnar þvî vêr, Samarfar vors elsk-ada og heidrada Fødurs, svo seint látum þetta allra styttsta Agrip Hans Æfi- og Utfarar-Minníngar og nú fyrst birt-ast, á hverju margir hafa sig furdad, þegar sáu adrar midur markverdari Fyrirmanna Minníngar ódum og brádar útkoma eptir þessara fráfall, eru margbreyttar, og þeß edli-sumar, ad vêr enga skyldu þeckjum til ad standa

Almenníngi reikníng fyrir þenna drátt, sem þó liggur vid ad leidi til fullnægjugjørdar *Horatii* reglu: ad láta ritgjørdir fyrst birtast á 9da árinu frá ritun þeirra. Þó má eg hér eina tilnefna, þá: ad vér høfdum og høfum í rádi, t. G., ad kosta verulegra Minnismerki yfir Foreldra vora, þeirra dádum og stétt framar sambodid, frá hverju, og þar til heyrandi Grafletri, vér um leid vildum, eins og frá Fødur vors Æfi-Minníngu, þá framar skírt hafa; en þar ymislegar hindránir enn hafa seinkad uppfyllíngu þessarar óskar vorrar, og enn kunna henni um tíma ad fresta, rédum vér af nú ad láta þá Æfi- og Utfarar-Minníngu vors sáluga góda Fødurs útkoma, sem þá verandi Dómkirkjuprestur, Hra. Brynjólfur Sigurdarson vid Hins Jardarfør 1812, framflutti yfir Líkkistu Hans, ad kalla eldúngis óbreytta, nema hvad

nú

nú er af oss fáeinum skírfngargreinum nedan-
undir vidbætt, eda í ( ) í sjálfri Minníng-
unni, um smávegis breytíngar þær, sem tím-
ans hlaup sídan í nefnum eda stétt kann or-
sakad hafa. Eins fylgir Dómkirkjuprests Hra.
Árna Helgasonar á Líkkistu-skjøldinn
1812 stúngna Graf letur á Látínu, med
undirskrifads útþýdíngu þess á Íslendsku.
Af mørgum innsendum Erfiljódum fylgja
ad eins fá, þau helztu þó, ad vorum dómi.

Ad þessi Minníng nú framkémur, eins
og hún haldin var vid Jardarførina
1812, í stad stærlegri og lengri Æfisøgu
svo nafnfrægs ædsta Landshøfdíngja, er
bædi til ad fordast álas øfundsjúkra og last-
gjarnra um offrekt og því sídur áreidanlegt
vitni nákominna Náúnga, um svo elskadann
Ástvin, líka þess vegna, ad sú af Dóm-
kirkjuprestinum 1812, framflutta Minníng,

heldur í bráð fullnóg Agrip helztu Merkis-atrida í Æfi vors sáluga Födurs med tilheyrandi fleiri Merkismanna dómum og vitnisburdum Honum vidkomandi í Grafminníngu Hans og Erfiljódunum, uns minna hlutdræg, en hlutvandari Eptirøld djarflegar lyptir skýlunni frá verdleikum Manna, sem í Sannleikans og Réttvísinnar ljósi nú kynnu ad olla glhu í nockurra samtída augum. Hún dæmir og enn vissar um hédanfarna, og leidir þá dygd og sannleika, eins og áleitni og øfundar adkøst í allsherjar ljós á hæfilegri tíma, enn þeim nærveranda.

Videyar Klaustri, þ. 20ta Apr. 1820.

*M. Stephensen.*

# Ræda

yfir Lik-kistu

Hávelborins Herra

Stiptamtmanns

# Olafs Stephánssonar,

haldin

á undan Hans Jardarfør

þann 26ta Nov. 1812

ad Vldeyar Klaustri,

af

Hra. Brynjólfi Sigurdarsyni,

þáverandi Dómkirkjupresti.

Gud! þegar Fadir og Módir, yfirgefa oss; þegar vjer í þessu lífi missum sjónar á vorum bestu ástvinum — þegar allt stundlegt hverfur oss, og vjer vid vini og veröld skilja egum — vertú þá vor Gud og Fadir, vor styrkur, hlífd og adstod í lífi og dauda, Amen!

---

Psalm. XXVII. v. 10.

Fadir minn og Módir mín yfirgáfu mig, en þú, Drottinn! annadist mig.

Þessi var Davíds þacklát og lotníngarfull játníng vid hans og vor allra Gud, fyri dásama vernd og handleidslu hans vid sig ígégnum margar hættur lífsins; og var þá svo ástadt vordid fyrir Davíd, er hann þessa minntist, ad hann, hvern guddómleg Forsjón hafdi áqvardad til Ríkis og helztu metorda, sá sig þegar á únga aldri, yfirgéfinn af Födur og

Módur, sem enn þá lifcu, en enga lidveitslu gátu veitt honum, vard farflótta ad flÿa huldu hofdi undan thrannans Sauls offóknum, en Gud miskunadi sig þá ÿfir hann, og frelsadi frá ÿfirvofandi hættu, sem hann þá var í=staddur; þessa velgjörníngs Guds, hvers hand=leidslu hann optar reÿndi, minntist David þá í þessum ordum, sem vildi hann sagt hafa: mínir trúfostustu vinir, þeir vinir, í hverra hjörtu náttúran innplantadi undir eins skÿldu og rækt til síns afqvæmis uppfósturs og menn=unar, þeir áreidanlegustu og náttúrlegustu vin=ir í lífinu — leidtogar þeir og verndarar, sem þín Forsjón hafdi mér géfid — þeir hurfu mér, þeir ÿfirgáfu mig, og létu mig nú ad=stodarlausann eptir — en — þín miskun, minn Drottinn og Gud! ÿfirgaf mig samt ecki; þín milda Forsjón géck mér í foreldra stad, er ecki gátu adstodad mig; — fodurlega ann=adist þú mig. — Margir af ydur, hátt=vyrdtu Vinir og Tilheyrendur! sem hér erud nú nálægir, munud sannarlega í ydar hjörtum finna alla orsök, þegar þér ÿfirvegid

øll þau markverdustu tilfelli ydar lífs, til ad undirtaka lotníngarfullir og þacklátir med Davíd: Fadir minn og Módir mín yfirgáfu mig, en þú, Drottinn! annadist mig, Þegar minir bestu, minir nánustu, minir hjartfólgnustu vinir, er eg svo reikna, þer hvurfu mer, reyndust mer illa eda vanmáttugir til ad hjálpa, þá uppvakti þín miskun mer adstodarmenn, verndara, leidtoga, velgjørara, og þannig fødurlega annadist þú mig. Æ! hvad mega margra þeirra samvitskur; sem nú standa hér í kríngum þetta tignada Lík vors besta og mest elskada Yfirmanns og Landshøfdíngja, hvad mega ecki þessar og allra þeirra, er raun þar á høfdu, nú játa og vidurkénna: ad einkum þenna blessada Herra valdi guddómleg Forsjón þeim til adstodar, verndar, heilla = eblíngar og gjæfu, og þannig annadist þá sem fadir, þegar í fleirst ønnur skjól var fokid fyrir þeim, en ørbirgd og vanmáttur, heilsubrestur elli eda úngdóms fáfrædi sumra, leiddi nockra í vandrædi og ótta, fyrir eptirkomandi æfi-

døg-

dogum. Hafi nú nockrir — og fleirstir munu þad vera — fundid sig sannfærda um þvílíka sérlega handleidslu Guds í gégnum lífsins ordugleika, háska og mædu, og þar hjá tjád sig fúsa til réttrar vidurkénníngar ens medtekna góda, verdugrar medferdar á því og þacklætis fyrir þad, sem vér í lífinu metum heill, heidur og gledi, þá var þad vissulega vor, til síns Guds og hans dyrdleгu sælu nýlega heimkalladi Hávelborni Yfirmadur, Herra Stiptamtmadur Olafur Stephánsson, hverr seint og snemma og þad sífeldt opinberlega vidurkénndi med vidqvæmu og þacklátu hjarta fyrir Börnum sínum og heimilisfólki, já, fyri sérhverjum, þenna vottinn Guds miskunar vid sig, og æskti því jafnvel: ad þessa sannleika yrdi nú minnst fyrir þeim, sem safnast kynnu ad Gröf Hans í dag, og þá jafnframt vidkalliast mættu mildi síns Guds og Skapara, hverja Hann í sínu eigin lofsverda lífi svo dásamlega reyndi, og því med hjarta og munni svo fúslega játadi: **Fadir minn og Módir mín yfirgáfu mig,**

en

en þú, Drottinn! annadist mig. En — ad þessi gódi og mikli Madur hafi hast rétt ad mæla, skal nú eptirfylgjandi styttsta Agrip Hans Æfisøgu votta fyrir ydur, háttvyrdtu Vinir og Tilheyrendur!

---

Stiptamtmadur Olafur Stephánsson fæddist í þennann heim ad Hoskuldsstødum í Húnavatns Sýslu, þann 3ja Maji 1731, af Foreldrum: Stepháni Presti Olafssyni til nefnds Stadar, og Ragnheidi Magnúsdóttur, hverra sérleg Ættgøfgi, dygdir og ættar heill í marga lidu eru ádur á prenti sýnd, og þessvegna vyrdist nú einber óþarfi hér á ný þetta ad rekja, þar Løndum vorum er og alkunnugt, ad til beggja heillasómu ættar egi fleirst Mikilmenni Lands vors, á seinni øldum, ad telja. Sína hjart-

kjæru Móður misti Hann 6 vetra gamall, eptirþrejandi med 5 úngum Systrum á barns aldri, en Føður sinn 16 vetra, sem enn þá í nýu hjónabandi hafdi ádur eignast 2 adra Syni, svo ad 8 munadarlaus og ómønnud, en þó efnileg børn, vóru sá dýrmætasti og því nærstum sá einúngis teljandi Féssjódur, sem sá Merkismadur eptirskildi í verøldinni.

Urrædalaus med Systkynum sínum stód nú vor hásæli Herra, yfirgéfinn af Føður og Móður, í efa um, hvad helzt Hann, sem fátækur únglíngur, skyldi til bragds taka, eda hvern lífs- og atvinnu-veg velja sér. Nockrir vina Hans toldu Hann á, ad birja búskap sem bóndi, á litlum jardarparti, med eldri Systur sinni Sigrídi, þar Hann þá á 16da alders ári virdtist þegar gott búmanns efni; en

For-

Forsjón Guds ætladi Honum ad gánga allann annann veg, og framvegis annadist þennann efnilega Munadarleysing, sem nú rédi sjálfkrafa af, ad leita adstodar hjá þáveranda Biskupi Hóla Stiptis Hra. Halldóri Brynjólfssyni, beiddi því og ödladist inntöku í Hóla Skóla, hvadan Hann 1753 var útskrifadur, sigldi á sama ári til Kaupmannahafnar Háskóla, med vart 100 rdla virdi í vörum og peníngum. Á þessari útreisu komst Hann í mesta lífsháska, þar skip þad Hann á var, í heil 2 dægur og um lengsta haustnættis tíma, lá hér fyrir vestan land, fyrir ofvidri og sjáfarbylgna óttalegu áföllum á hlid, med hálfum skipreida í sjó, hvar daudinn var bodadur fólki hvert augnablik, èn fleirst úrrædi til bjargar hvurfu; sýndi Gud á Honum verud sína og frelsi af þvílíkri hættu, og þar fyrir

utan optar hér á landi, er skédi vid háskalegt yfirfall í tvo skipti*), hvers Hann og optléga, med hjartanlegu þackläti

*) Þad fyrra yfirfall, med heitingum og tilraunum ad svipta vorn Háæla lifi, skjedi af fyrrum Capelláni Olafi Gislasyni — þá verandi ad Hvitadal í Dala Sýslu — opinberlega á Løgþingi 1768, þann 14da Júlii, í vidurvist Vicelögmanns Jóns Olafssonar og 2gja Stúdenta, hvar um Gjestarjettar Dómur Brynjólfs Sýslumanns Sigurdarsonar, þann 18da, og Løgþingis Dómur Løgmanns B. Markússonar, þann 23ja s. m., — hvern sidara lesa má í þess árs Løgþingisbók, No. XXXVII. — bera ljósast vitni. Þó þetta væri öldungis orsakalaust, eins og þessi Dómur vitnar, framid, mælti Olafr Gislasyni þad eitt afsøkun, ad hann bædi þá og sídar, sem alkunnugt er enn, reyndist rænuskjerdtur, og þess vegna ófær til ad stjórna ósthrilátum gedsmunum sínum, enda ersdi vor Sálugi þetta bana-tilrædi svo lítt vid hinn og hans, ad Hann strax gaf konu hans álitlega gjøf, er hún kom á fund Hans, til ad mæla líknarmál manni sínum.

Hid

læti til síns Guds, minntist, eins og þess, ad skip og fólk í þetta sinn frelsadist úr þessari daudans hættu, og komst

B síd-

Hid sídara ysirfall skedi Sumarid 1808, þegar sá enski Reisari Guilpin kom hjer vid land og rændi vída opinbera Fjársjódu. Stálust þá híngad í Videy 2 af skipsmønnum hans um náttar-þel, brutust inn í vors Sáluga Svefnherbergi med hladnar byssur og nakin sverd, midt í Hans svefnværdum, neyddu Hann sárlasinn og þá sorgmæddann, med ógnun dauda strax í stad, þar nakinn og varnarlausann, til ad framselja þeim hvad fjemætt í gulli og silfri, ásamt Gull-úhri Hans, þeir þar litu og fundu. En — þegar Yfirmadur þeirra Guilpin nockru sídar vard þessa óbótamáls var, ljet hann Ræníngjana aptur skila því rænda, og vildi strax í stad, eptir enskum strids- og borgaralegum lögum, og annars flestra sidadra þjóda um Ræníngja, láta þessa spillvirkja upphengja á Skipi sínu, en þá beiddi vor hjartagódi Framlidni þeim innilega lífs, vægdar og straffs-linunar, og fyrirgaf þeim ad sínu leiti, eins og mildi fylgdi og stýrdi

øllum

sídan til Kaupmannahafnar. Þar dvaldi vor háſæli Herra erlendis 3gja ára tíma, og eptir það Hann hafdi med bestum lofstýr, árid 1756, afstadid hid sídarsta Lærdóms-próf edur Embættis Examen, vid tjedann Háſkóla, í Løgspeki, var Hann af þeim ódaudlega Konúngi Fridreki enum V., þann 17da Apr. s. á. nefndur Vice-Løgmadur Nordan og Vestan á Íslandi, og Honum ſkipad eptir þá verandi Løgmanns Sveins Sølvasonar dag, ad vera virkilegur Løgmadur þess Løgdæmis.

Árid

øllum Hans heidrada líſs- Embættis- og ødrum athøfnum, ad því leiti løg framaſt leyfdu, med laungun ad vidreiſa og betra hraſada, en verja ſem fleirsta med rettindum frá falli, er olla mætti þeim æru eda velferdar tjón æfilángt, þá rettvíſin hvervgt naudſynlega krafdi.

Arid 1761 þann 16da Septembr., giptist Hann þeirri fyrir gáfur, dygd og allsháttar qvennkosti yfir allt land gódfrægu Frøken **Sigrídi Magnúsdóttur** Amtmanns **Gíslasonar**, hverrar **Minning** medal vor allra lifir í blessun og heidri, og er þar hjá 1810 á prent útgéfin. Af 7 Børnum, med hverjum Gud blessadi þeirra Hjónaband, eru 3 undan þeim bádum gengin til hvíldar, en 4 lífs, øll í bestu heillum og heidursstøndum, nefnilega: Hra. Etatsrád*) **Magnús Stephensen**, Jústitiarius í þeim konúnglega Landsyfirrétti á Íslandi; Hra. **Stephán Stephensen**, Amtmadur yfir Vestur-Amtinu, og Hra. **Bjørn Stephensen**, Jústits-Sekreteri í

 Lands-

*) Nú Conferencerád og Doctor Juris.

Landsyfirréttinum; en 1 Dóttir Frú Ragnheidur Scheving, Ektaqvinna Sýslumanns í Borgarfjardar Sýslu*) Jónasar Schevings, hver hér øll nálæg standa nú yfir moldum þeirra dygdarkasta, náqvæmasta og þessvegna innilega saknada Fødurs, ásamt 11 Barnabørnum af 23, sem enn (1812) eru borin, en 17 nú á lífi.

Árid 1764 þann 14da Maji, var vor hásæli Framlidni af Fridreki Konúngi V. settur Amtmadur yfir øllu Íslandi, eptir Amtmanns M. Gíslasonar dag, og á medan hann lifdi, ásamt honum, hvad med nýu Embættis veitingar-bréfi, útgéfnu af Kristjáni Konúngi VII. þann 23ja Június 1767,

*) Nú og virkilegs Cancelliráds.

1767 var stadfest; en þar Hans elsku-
legur Tengdafadir, Amtmadur sálugi
Magnús Gíslason, deydi 3ja Nov.
1766, þjónadi Hann einn og sem einka
Amtmadur alls Islands, því Em-
bætti fram á Midsumar 1770, þángad
til Stiptamtmadur Lauritz Andreas
Thódal, eptir gjørd skipti Landsins
í tvø Ømt, sama ár tók vid Sudur-
og Vestur-, en Hinn framvegis
Nordur- og Austur-Amti þess,
uns Hann, þann 12ta Maji 1783, féck
med fullum launum lausn frá því í
náð; þar ed Hann þá á efra aldri eptir
19 ára þjónustu í Amtmanns Em-
bætti, treystist ecki til ad yfirgéfa ætt-
menn, hús og eignir á Sudurlandi, en
flytjast búferlum til Nordurlands.

En — sú hvíld vard þó ecki laung
fyrir vorn Framlidna, því árid 1787

þann 6ta Júníi, var Honum á ný útgéfid konúnglegt Embættis-bréf fyrir Amtmanns Embætti yfir Islands Vestur-Amti, sem þá var stiptad. Um þetta hafdi Geheime Statsminister Greifi Reventlow, þann 22ann Júníi 1786, géfid Honum vísbendíngu í eginhandar bréfi til Hans, sagt Honum, ad Hann mætti vid því Embætti búast, „þar enginn finnast mundi ad „jafnri þeckíngu, dug eda reynslu vid Hann, sem giøra mætti „Rentukammersins kosníngu „Hans til þess Embættis éfasama," eins og sjálf breffins ord hljóda. Hans rádvendni, framqvæmd og dugnadur í því Embætti, og lánga þjónusta í øllum Omtum Islands, vard og þar eptir, sem fyrri, svo vídræmd, ad konúngleg Hátign, þann 14da Aprílis 1790, óbedin veitti Honum Stipt-

Stiptamtmanns Embætti yfir Islandi, og þann 17da Apr. 1792 í Amta-skiptum ásamt Amtmanns Embættid í þess Sudur-Amti, hverjum Embættum Hann sídan þjónadi med alls Almennings lofi og ánægju fram á Midsumar 1803, þá konúngleg Hátign baud Honum Embættis-störfum í bráð ad sleppa. Fáum mun ad sonnu rétt undirrót og frámgángur þessa staklega atviks gjörsamlega enn augljós, en af ordatiltækjum bréfa þeirra, sem Konúngur um þetta efni útgaf, má þad ráda, ad Honum hafi tjádir verid brestir einhverjir almennings stjórnar hér á landi; lét Hann sér þá, sem von var af svo réttvísum Lands-födur, sem elskadi allra Sinna þegna heill, annt um vera, ad fá hid sanna í ljós-leidt, svo rádin yrdi bót á, ef í nockru væri áfátt, en saklausir fengju tækifæri ad

sýna med røkum sikn sina; þvi
þad er eptir løgum vorum og opt ítrek-
udum vilja vorra gódu Konúnga, ein-
hver mikilvægasta skylda sérhvers Em-
bættiémanns, og því markverdari sjálf-
sagt, sem honum eru stærri vøld í hend-
ur fengin, ad hrinda hverskyns álasi,
hvert heldur snertir Embættis sýslanir
edur adra adburdi, sem efundar menn
kynnu fram ad bera. Í þessu skyni lét
Konúngur grènslast eptir, hversu hér, á
Sonum svo fjærliggjanda landi, væri
stjórnad, hvernin løgsøgn framhaldid,
og s. frv. Ad eptirgrenslan þessi gjørd
hafi verid ítarlega, mun og þarf enginn
um efast, og því sídur hitt, ad Konúng-
ur, med vitrustu Rádgjøfum sínum, veg-
id hafi á réttlætisins straungustu vigt,
hvad med ransókn þeirri í ljós leiddist,
sem alls eckert fannst vorum Fram-
lidna saknæmt — og hvillíkt minnis-
merki

merki vard þá reist vorum háskóla Framlidna framar til heidurs? hverr vottur merkari, enn þau alkunnu lok þessa máls? — Án þess hid minnsta satt findist Honum til ámælis, var Hann þá, eptir 47 ára mædusama þjónustu i Løgmanns, Amtmanns og Stiptsamtmanns Embættum, madur, þá 76 ára gamall, vordinn mæddur, lúinn og veiktur af náttúrlegum ellibburdum, þessvegna ecki heldur lengur fær um ad standa á svo ørdugum Pósti, hvers vegna Konúngur vor, þann 6ta Júnii 1806, gaf Honum, ad egin ósk Hans, vyrdíngar-fulla Embættis-lausn í Nád, med tveimur þridjúngum launa Hans árlega og Videyar Gardi til frí bústadar um Sína tíd, í Pension. Vor náduga Rikisstjórn var og jafnskjót til, med heidri ad veita Hans æruverdu hærum og

háa aldri hvíld, sem til ad hugga Hans hrellda anda*), med því á hann sama dag ad kjósa einn Hans duglegu Sona, og Honum líkann, til Amtmanns Embættis í Vestur-Amti Íslands.

Hverr, sem nú yfirvegar þenna Part Æfisögu vors elskada Framlidna — þær sorgir og mótlæti og háska, sem lengi vóru samblondud þeim gledi- og heilla-sömu tilfellum Hans lífs; hversu réttvíslega og med heidri úr hinum æ greiddist! hversu satt og rétt mál, dygd og sakleysi, fékk, eins og von var, sigur, og hrundid grundvallarlausri áleitni; hann — segi eg — má í til-

*) Þegar hún komst ad raun um alkunnar ofundar áráfir gegn dygd Hans og forþjenustum, sem eru víss umbun gegnum aldir, Íslands dádmestu og forþjentustu Sona, af egin Londum, ad Sögunnar ljósa vitni.

tilliti til vors Framlidna vidurkéña, eins og þessi Sjálfur svo opt fann Sig hrærdann af, ad á Honum hafi fullkomlega rætst: Fadir minn og Módir min yfirgáfu mig, en—þú, Drottinn! annadist mig!

En — þó þetta megi álítast fullkomlega vottad af því, sem nú var talid, þegar adgætist sú hér á landi dæmalausa lucka, frá fátækum og munadarlausum Prestssyni, ad verda hér Islands ædsta Yfirvald og Landshöfdingi; og med heidri á hendi ad hafa þess Stjórn í ædstu Embættum í 40 ár, med þvílíkri réttsýni, dugnadi, áhyggju fyri vorra Konúnga gagni og jafnframt Almenníngs velferd, sem enginn hér eñ hefir honum fremri vottad — þó þetta allt — segi eg — megi sanna, ad Sá, sem nú liggur hér Lík fyri vorum sjónum,

um, var í lífinu sérlegasti gæfumadur, og Madur, hvern Drottinn munadarlausann sérlega annadist, var þó máské minnst af Hans gæfu í tjeduṃ vøldum og vyrdíngum falid, því Hans lángmesta og besta gæfuhlutskipti var fyrst og fremst sú stórdygdauduga Frú, sem Honum hlotnadist; Kona — hverrar minníngu allir, sem til þecktu, heidra og blessa; Kona — sem vor hásæli Framlidni seint og snemma áleit og vidurkénndi ad vera grundvøllinn til Sinnar adal-lucku, heilla, heidurs og allrar ánægju í lífinu, Sína einka huggun af mønnum, trúfastasta Førunaut, vin og rádgjafa; í stuttu máli: Hans Allt í þessu lífi, med hverrar missir árid 1807 um þessar mundir ad reikna, Hañ og taldi Sér upp þadan allt yndi hvørfid, og allt hvad framar gat

bund-

bundid Hans óskir til þessa heims. Upp þadan sló Hann sloku vid allt stundlegt, sann þad létt og litilsverdt, og med þúngum trega og sorg í hjartanu, þreydi sárlega eptir þeirri óskastundu, sem Honum nú er veitt, sem fyrst ad mega leysast hédan, og vera med sínum Frelsara, hvad Hann m a t t i m i k l u b e t r a, þar ad samfagna Sinni hjartkjæru Ektafrú, gledjast af Hennar nálægd og sælu, og ad Sinn líkami mætti sem lík blunda sem fyrst vid Hennar sídu, eins og þau í ást og føgnudi høfdu í lífinu saman-verid, hvert huggad annad og gladt, og verid hvert ødru ætíd til yndis og ad-stodar, hvad Hún og sérlegast sýndi, já, og undrunarlega í lífsins þúngbærustu reynslum, bædi vid sjúkdóm og líka missir hjartkjærra Barna þeirra, sem og vid ýmisleg mædu tilfelli, einkum 1783, og sídan um Sumarid 1803, allt til Hennar dánardægurs.

Hans nærsta gæfu-hlutskipti tel eg Hans sérlega Barna-lán allt til þessa dags. Ad láta Fødurlandinu í tje, og sum eptir Sig, svo mørg því gagnleg og híngad til gæfuvænleg Børn og Barnabørn, þau fyrri, sem nú lifa, øll í heidurs. stéttum, øll líkleg og reynd ad hafa tekid marga þeirra elskudu Foreldra mannkosti í arf; þetta — segi eg — er gledi og gæfa fram yfir fleirst annad, sem gjøra má gudhræddum Fødur hans sídasta vidskilnad værann og gledilegann, í fulltrausti um, ad sá Gud, sem svo dásamlega leiddi Hann í gégnum lífsins margbreyttu leidir, sá Gud, sem svo fødurlega annadist Hann á Hans gjørvøllu lífs-vegum, hann muni og annast Hans gódu og rádvøndu Børn, þó Fadir og Módir yfirgéfi þau.

Hans

Hans mikilvæga lán og heill þessu nærst tel eg ad sönnu: þá sérlegu framsýni, gáfur, búvit, blessun og hamingju í Hans bústjórn og þar ad lútandi bjargar útvegum; góð efni og velgengni, sem Guðs örláta hönd lét vorum háſæla Framliðna í skaut falla; en þó einña helzt það örláta, gæðskuríka og meðaumkunarsama hjartalag, sem náttúrunnar Herra og guðhræðsla höfðu gædt Hann með, til að brúka þessi efni vel og Gjafarans tilgángi samqvæmt, án svalls og óhófs, til sómasamlegs uppheldis Sér og Sínum; til kostgæfilegrar og góðrar mönnunar þeirra Barna, sem Gud sæmdi Hann með; til aðstoðar Eckjum og Munaðarleysíngjum; til hjálpar svo margra, sem vóru í neyð eða vandræðum staddir og Hans örláta hönd feck

til náð; til frelsis og lífsbjargar ótelјandi fjølda fátækra og bjargþrota manna, sem um alla Hans daga, einkum í þeim minnisstædu hallærum 1756—57, 1783 og 1786, þess á milli jafnan, og allt til Hans dauðadags, áttu Honum líf sitt og sinna að þacka, eða að minnsta kosti mikilvæga hjálp í neyð.

Þessi hér dæmafáa og yfir allt land nafntogaða eðallund Hans, lét nauðstaddra manna hrærð og þacklát hjørtu í øllum áttum sífeldt ákalla blessun og umbun þess, er allt gott veitir og géfur; yfir Hann og Hans Niðja, hvað eptirtakanlega hefir því fremur á þeim hrinið og rætst, er Hann fyrst og seinast, sem guðhræddur Faðir, innplantaði og svo opt og einarðt, já, inn til Síns dauða, ørfaði hjá þeim líkt sinnis-

finnislag í því, sem þau megnudu ad framqvæma, eptir Hans dæmi, aunnum til adstodar. Hjartalag og mannkjærleiki Hans, sem ecki einúngis í þessu landi lætur vors Framlidna Minníngu vara vid í sífeldri blessun medal allra gódra Landsmanna, heldur ávann þetta Honum margra lofstýr og heidur erlendis, sem til þessa fréttu, hvar uppá vor hásæli Konúngur Kristján enn VII. lét Honum og ødrum miñisstædann vott í tje, med því ad sæma Hann, þann 22añ Martz 1786, fyri svo staklega manndád, med Sínum stóra Minnispeníngi pro meritis eda fyrir Forþénustur, í Gulli, til æfinlegrar Ærnminníngar.

Medal svo margs añars, sem tigna má Minníngu vors hásæla Yfirmanns vóru og þær miklu, gódu

og sérlega lidugu Náttúru-gáfur Hann af Skaparans gódgjørnu hendi þegid hafdi; mikinn og fljótann skarpleika, honum sambodna greind, besta minni, gott næmi*); allt þetta fleytti og flýtti Honum fram til valda og þess heidurs, fyrir lærdóm í ýmsum greinum, einkum Løgspeki, Gudfrædi, Fødurlands søgunni og Landbústjórnar-Frædum, sem Hans ýmsu prentudu Ritgjørdir áunnu Honum í þeim tveimur sídari, hverra hér er nú ecki stadur né tóm ad minnast**). Auk þessa veri vottur um Hañ,

þau

*) Í fám ordum vissi Hann rjett, mergfullt og ordulega ad innibinda mikilvægustu efni og ástædur, og í snotrum og lidugum stýl, sem fleirstum fañst unun ad lesa, en færri Embættismanna hafa vid jafnast.

**) Hans prentudu Ritgjørdir eru:

Stutt Undirvísan í Reikningslistinni og Algebra, Khøfn 1785, tilskipud Lærdómsbók

þau mörgu bréf, sem nafnfræg Lærdóms-Fjelög í Kaupmannahöfn, Þrándheimi og Lundúnum hafa Hon-



Látínu-Skólanna á Islandi, med Kóngsbr. þann 10da Febr. 1786.

Eptirfylgjandi 6 merkileg Búnadar-rit Hans, prentud í nockrum Bindum Lærdóms Lista Fjelags Ritanna, nefnilega:

a) Um Ædar-varp í 4da Bindi.
b) Um Gagnsmuni af Saudfje í 5ta B.
c) Um Not af Nau-peníngi í 6ta B.
d) Um Hesta í 8da Bindi.
e) Um Sjáfar-afla og fleiri Vatnaveidar á Islandi í 7da Bindi.
f) Um Jafnvægi Bjargrædisveganna í sama Bindi.

Kort Underretning om den islandske Handels Förelse, fra 874 til 1788, Khavn 1798.

En — ætti hjer ítarlega fráságu ad gjöra, um allar þær óprentudu Ritgjördir Hann í Embættis efnum samdi um Merkis atridi mörg og mikilvæg fyrir Land og Lýd, um allann Hans lánga Embættis ára tíma, yrdi rúm fyrir því lika helzt oflítid á þessum blödum, lika vyrdist hentugra ad leysa þad verk eptirkomandi Sagna-skrifurum, sem æ vyrda og dæma verdleika Merk-

um sendt, og með þeim kjörið Hann til þeirra Félags, og jafnvel suin til Heiðurs-félaga þeirra*); einninn að Hann frá

is Manna og verka þeirra vissara, eptir aldar frest, enn annaðhvert fylgissamir eður ofund-siúkir, hlutdrægir og siergóðir samtiða Fyrirmenn vorra Landa.

Hversu Embættis afskipti Hans fyrrum af Islands kaupverdslunar málefnum metin var af konúnglegri Hátign og Ríkisins Stjórnar-ráðum, vottar nógsamlega Honum til verdskuld-aðs lofstýrs, það konúnglega Boðorð hier um þanú 29da Sept. 1797, auglýst og prentað á donsku og islendsku í Islands Lögþingisbók 1798, bls. 12 — 39, einkum bls. 36—37, það góða álit Konúngur gaf þeim aðgiørðum Hans, um hveriar starleg Embættis skírsla er af Honum sialfum á prenti þar auglýst undir eins á bls. 40 — 46.

*) Hann var Forseti ens konúnglega islendska Lands-Uppfræðingar Fjelags; Heiðurs Medlimur kiörinn Fornfræða Fjelagsins í Lundúnum; Staðfastur Yfirordulimur Lærdóms Lista Fjelagsins; Medlimur eña konúnglegu: Norska Visinda — og Danska og Norska Genealogisk-Heraldiska — Fjelaga, og — correspondérandi

frá 1794, var einn af ens konúnglega íslendska Landsuppfrædíngar-Félags fyrstu Medstipturum og þess Forseti. En þó fyritaks Náms-gáfur séu mikilsverdar, vega þær samt lítid, sé hjartalag sidferdi og dygd þeim ecki sambodid; allt þetta reynd-ist hjá vorum elskada Framlidna til ens besta sameinad. Sidsemi í ordum og verkum, hid besta, blídasta, vidqvæm-asta og dygdugasta hjarta, fullt jafnan med innilega lotníngu fyri Gudi, hans ordi og vilja, stödugl yndi í sönnum krist-inndómi og hans æfíngu í öllu fram-ferdi; lítilæti vid hvern mann, med allri þeirri tign og heillum Hann var sæmd-ur med; gódsemd í umgengni og vid-móti vid alla; ljúflyndi og vorkunsemi



Medlimur ens konúnglega Danska Landbú-stjórnar Fjelags.

vid breiſka, einfalda og undirgéfna; hóg-værd, umburdarlyndi og ſérleg ſáttgirni vid óvini og mótgjørda-menn Sína; hjartagædſka og orlæti vid alla naud-ſtadda; þolinmædi í mótgángi; trúfeſti vid vini; ættrækni ſérleg; kjærleiki til Konúngs og Fødurlands, og ſtødug óſk og vidleitni ad gjøra ſem fleirſtum gott*), eng-

*) Sem dæmi uppá Høfdings lund Hans og góð-gjørdir vid naudſtadda, má hjer eitt — af ótal — tilnefna, nefnilega: rauſnarlega Gjøf Hans þann 30ta Sept. 1797, med þá útgefnu Gjafabrefi á 210 Hundrudum Faſteigna Hans í Vatns-dal í Húnavatns Sýſlu, nefnilega: Márs-ſtødum 60 Hundrudum, Hófi 60 Hundrudum, Mardarnúpi 70 Hundr. og Gilá 20 Hundr. og ſkilordi: ad 20 kúgyldi ſkyldi med framtíd fylgja ætíd eignum þeſſum, en þær vera æfinleg eign Fædíngar Sveitar Hans, Vindhælis hrepps í ſømu Sýſlu, þanninn: ad þrjár naud-ſtødduſtu og fleiri enn þremur ómøgum bundnar-rádvandar Eckjur í þeim Hreppi, edur ef ſvo margar naudſtaddar og ſvo áſigkomnar Eckjur þar ecki finnaſt, þá í þeirra vantandi ſtad, eins

engum íllt, eda láta nockurn gjalda mótgjørda, sem Honum vóru sýnd-



staddir, rádvandir Eckilar þar í sveit, (ecki þó fleiri Menn eda Eckjur enn 3 í einu) njóta skyldu alls Landskulda gjalds og hálfra Leigna af þessu gótzi árlega, uns yngsta barn þeirra er 18 vetra, en Prófastur og Sýslumadur þeirrar Sýslu hálfra Leigna, mót gódri umsjón beggja um vidhald og góda byggingu nefndra Jarda, og um tilnefndrar Kúgylda tølu innsetningu og vidhald á gótzinu, en einkum fyrir útdeilingu afgjaldsins og rjettsýnt val þeirra, sem þess njóta ega, samqvæmt Gjafarans fyrirmælum.

Ad tilnefna þá mørgu, hverrar velferdar Grundvøll sá hásæli Framlidni lagdi — auk egin Barna Hans — med því besta uppeldi, umhyggju og ørlátri adstod til þeirra mentunar til Lærdóms frama, bædi hjer í landi og einkum vid Kaupmannahafnar Háskóla, eda hjer til búreisu og bjargar í lífs vandrædum, yrdi bædi hjer oflángt og máske óþarft, þar. þetta er þjódkunnugt, bædi hvad Ættingja Hans og vandalausa snertir, allt veitt af því gódvildarsamasta hjarta; og væri tilgjetandi, ad serhverr þeirra sem þádi, vottad hefdi í verkinu eptirá jafn hreinskilna og vidqvæma tilfinníngu þack-

ar *). Allt — allt þetta veit hverr sá, sem til Hans þeckti, ad var í miklum mælir sameinad í Hans dygdugu-sálu; þetta eptirdæmid — segi eg — sem Hann setti ødrum, og einkum fól Børnum sín-um opt á hendur eptir ad breyta, og ad bodi og dæmi síns og vors Frelsara Jesú Krists: „ad elska óvini, en gjøra þeim gott, sem oss hata."

Í tilliti til sídustu Sóttar og vidskilnadar vors elskada Stiptamtmanns, er nóg hér ad minnast á:

ad

látsams hjarta fyrir svo stórkostlegar velgjørdir, ef sorgleg reynsla ecki svo opt sannadi mønnum, ad þessi náttúrlega og skuldbundna vidqvæmni og vidurkjenning, ecki byggir ønnur enn góð, lítilát og skyldurækin hjørtu, og ad velgjørdir þess vegna, eins þær öldúngis óverdskuldudu, fyrnast í hinum svo fljótt, sem telja ser allt skilid þackarlaust, sem skyldu-skatt.

*) Sjá dæmi þess tvø af mørgum, í skiríngargrein vid bls. 16.

ad einlægt frá dauda Hans hjartkjæru Frúar 1807, sem vid þetta tímabil skédi fyri 5 árum, vyrdtist Hann safnad hafa til þessa sjúkdóms, er nú loksins leiddi Hann heim, med rótgróinni, óaflétttanlegri sorg eptir hana, og sem öldúngis umbreytti Hans sinnis gladværd og ró, svipti Hann eird og sinnu, jafnvel á sérhverju því, er snerti Hans heimilis þarfir, en fyllti Hann med laungun, ad hverfa sem fyrst heim til Sinnar Ástkjæru og til þeirra Guds, og orsakadi þetta Honum laungum svefnlitlar nætur og jafnan óreglulegar næturhvíldir. Þannig tærdust Hans sálar og líkhams kraptar smámsaman burt med vaxandi elli og örvesi. Þó var einkanlega á næstlidnu sumri fyrst á Hans þverrandi ráddeild med koslum, vid minkandi fótaferd, en meiri svefnþúnga, sem heimsókti Hañ þá lífsfjör fór rénandi, svo ad frá birjun

 Sept.

Septembers mán. má ad mestu reikna Hans banalegu, þó Hann litla stund á dag nockrumsinnum drægi sig á fætur, úr því samt med vidhaldanda rænubresti á stundum, er smámsaman vóx sídan, eptir sem elli hrumleiki ljet fjør Hans og lífs-krapta hrørna. Jafnvel med fullri rænu, og bad sífeldt, ne:tadi Hann þó ad Hann fyndi til sóttar edur verkja, nema í vinstri øxlinni, af henni fylgjandi gamalli Iktsýki, en brjóstþýngsli og mædi fórn þó í vøxt, gjøreyddu matarlyst, juku þorsta, og sannfærdu bædi Hann sjálfann og adra um, ad Hans lausnar frá jardneskri mædu mundi ecki lángt ad bída, vid hverri Hann og, med hjartanlegri rósemd, ánægju og venjulegri bæn til Guds fyri Sér, Børnum Sínum og Fødurlandi, hugrór, þolinmódur og seginn bjóst þá og þegar, uns ræna, mál og heyrn ad qvøldi þess 8da

Nov.

Nóv. algjörlega vyrdtust ad yfirgéfa Hann, en lángvarandi svefnværd tók yfirhønd, allt til qvølds þess 10da s. m., þá brjóstþýngsli gjørdu Hans andardrátt ervidann. Lokfins kalladi lífsins og daudans Herra Hann, med hægu og væru Andláti til sinnar eilífu dýrdar burt hédan undir dagmál, þann 11ta Nóv., eptir eitthvert hid dygdugasta, uppbyggilegasta og heidursfyllsta, farsælt líf um 81 ár, 27 vikur og 3 daga, þar af í Løgmanns, Amtmanns og Stiptamtmanns Embættum í 47 ár. Sæll er Hann, sá gódi og trúlyndi Þjóninn, sem nú er inngenginn í eilífann fognud med Hans Gudi og Frelsara, og í øllu Sínu lífi svo dásamlega þreifadi á, mátti vidurkénna og játadi: Fadir minn og Módir mín yfirgáfu mig, en þú, Drottinn! annadist mig!

Háttvyrdtu gódu Herrar og Tilheyrendur, sem ná eru safnadir ad Líkfistu þessa mikla Landshøfdingja! allir þeckjum vér ad sönnu þann skylduskatt, sem náttúran einusinni krefur af oss öllum, ad vort dupt hverfi aptur til jardarinnar, af hverri þad upprunnid er, en — Høfdingja fall, sem þetta, gagntekur einkum vor hjörtu. Vér sjáum ná þann innibyrgdann í sáum sjölum, sem því nær um hálfa öld var einhverr vor besti og ædsti Landsstjórnari yfir allt vort Land á víxl; vor serlegasti Landsvinur og Velgjørari, vor Sómi og vor Heill. Hans hjartkjæru Børn mega hér innilega og sárt sakna þess besta og ástríkasta Føduts, þeirra fegursta dygda eptirdæmis; þess staklegasta leidtoga þeirra úngalífs; vorkunsamasta velunnara, vissasta naudhjálpara. Fadir og Módir eru þeim ad sönnu horfin, en med engu hér í lífi mega þau framar gledja þeirra dygdarlíku Sálir í himnarlíkis dýrd, enn med því ad seta þeim líkt í gégnum skeid lífsins, og áhyggjusamlega

rekja

rekja þeirra dygduau fótspor, eins og þau líka hafa fyrir laungu birjad, hvar med þau efalaust münu taka þá vissustu heill í arf eptir þeirra gódfrægu Foreldra! ad Drottinn, sem aldrej yfirgéfur þann, er á hann vonar, og er Fadir Födurlausra og Dómari Ecknanna, hann vill ecki yfirgéfa heldur sérlega annast þau, enn þótt nú Födur og Módur-laus ordin séu, ja, med Davíd láta þau sanna: Eg var úngur, en er nú gamall, og hefi þó aldrej séd þann réttláta bjargþrota, eda nidja hans gánga vid vonarvöl.

Þér Eckjur og Munadarleysingjar, sem hér nú erud fjær- eda ná-lægir ad þessu sinni! Þér, eg — og hverr einn, er nutum svo margfaldlega Hans náqvæmu adstodar, hjálpar og orlætis, megum sakna, því vor sorg og soknudur vid missir þessa mikla Manns og vors óbreytanleja Velgjörara, er mikill og náttúrlegur; vér finnum og sárt til, hvers vér nú höfum misst, en blessud veri Hans Minning æ og

jafn-

jafnan í vorum hjörtum, og oss ógleym-anleg! Og Þér Fátækir og Nauðstaddir! já margir, sem að þessu Heimili sóktuð hjúkr-un, björg og saðníngu fyrir yður og yðar, o! Þér megið sárt sakna og maklega upphrópa, eins og eitt vort Merkisskáld*) við fregnina um Hans Lát nú gjört hefir:

"Friði mig Drottinn! Fallin er
"Fátækra Styttan mikla!"

En — verið hughraustir! sá Guð! sem nú á ný gjörði yður Munaðarlausa, er og einn máttugur til að annast yður! Þér, sem víða um land vort, vóruð Hjú vors Framliðna, og mörg sóktuð í Hans hús yðar beztu lukku og sæmd, minnist, hvað góðann, elskuríkann og uppbyggilegann Húsbónda og Yfir-mann Þér áttuð, gjæddann hjartagæðsku og umburðarlyndi; þakkið Guði fyrir það með-tekna góða og blessið Hans tignuðu Moldir! Já, allt Ísland! allir Hans Undirgefnir, Hans Kunníngjar, Ættingjar, Vinir og allir

*) Assessor Benedikt Gröndal.

allir gódir menn! Unnid Honum verdugs lofstýrs Ydar á medal æ og jafnan, og heidrid Minníngu þessa vors mista mikla Landshøfdíngja ávalt, sem ber!

Vér allir, sem med Honum mistum sann-kalladann Fødur, selum oss af hjarta Guds gódgjørnu og miskunar-ríku fødur-Forsjón; hún ein sær oss vorn mikla missir bættann, og er bædi fús og máttug til ad annast oss, yfirgésna í brád af vorum hér framlidna Fødur. Amen!



# Epitaphium.

HOC. CONSERVANTUR. LOCULO.
MORTALIA.
VIRI. IMMORTALIS.
OLAVI. STEPHANI. FIL.
NATI. V NONARUM. MAJI. MDCCXXXI.
DENATI. III. IDUUM. NOVEMBR. MDCCCXII.
QVI.
A. PARENTIBUS. MEDIOCRIS. FORTUNÆ.
PROCREATUS.
AD. SUMMAM. DIGNITATEM. CIVILEM.
MERITUS. EVECTUS. EST.
CUJUS.
INGENIUM. MORES. VITA.
IPSAM. HANC. DIGNITATEM. SUPERABANT.
CUI.
NATURA. ET. FORTUNA.
QVÆVIS. MAXIMA. TRIBUERE. CERTARUNT.
QVEM.
OMNES. BONI. LAUDARE.
NUNQVAM. CESSABUNT.
CAVETE. VERO. CIVES.! DETERATIS.
VITIO INGENII.
TANTI. VIRI. LAUDES.
DONEC. QVI. DIGNE. LAUDAVERIT.
HEV. SERO.! NASCETUR.

*posuit* ARNAS HELGII.

# Grafskrift.

Felst hid daudlega
I fjølum þessum
Odaudlegs Herra
**Olafs Stephensens,**
Sem fæddist 3ja Maji 1731,
Deydi 11ta Novembr. 1812.

Mann, af Foreldri
Medal-stéttar
Borinn, verdleikar
Báru til valda
Ædstu tignar,
En Hans gáfur,
Líf og sidgædi
Þó litust ædri.
Um nádu keppa
Náttúra og Gæfa:
Hver veitt fengi mest
Honum ágæti.

Aldrei munu linna,
Allir gódir
Øldúngs lófstýr
Uppi ad halda.
En, varist, Brædur!
Af bresti hyggju,
Svo mikils lof
Manns ad rita,
Verdur uns borinn
Sá verdleik ad
Lofa má Hann
hvers lángt mun bída.

Svo setti
*Arni Helgason.*

útlagdi
M. Stephensen.

D Sakn-



I.

# Saknadar-hljód
úr Skagafirdi
eptir sál. Geheime Etatsrád,
## Herra Olaf Stephensen,
af Sýslumanni J. Espólin.

1.

Nú strídir margføld neydin á,
Nú eru Tídir þreynglínganna;
O Tíd! nær viltu hætta hrjá,
Og hverskyns gledi þjódum banna?
Þú gatst ej heldur leika í lyndi
Látid, ad mættum halda þeim,
Sem vorrar þjódar vóru yndi,
Vor prýdi, vegsemd, heill í heim.

2.

Vér áttum styrkvann Stydjandann
Stephánsson Olaf, frægstann lengi,
Stórann ad øllu Stiptamtmann,
Stód þá vort blóm í besta gengi,

Vér

Vèr unntum Honum Íslendingar,
Innlendur var svo neinn ej hár,
Ad mannvyrding, þeim mentir kríngar,
Margskonar vóru og Dygdin klár.

3.

Likhríngíng fyllir Loptid sú,
Lýsandi vorum Sorga = tídum,
Hvorfinn Öldúngur ædstur nú
Íslandi borinn, sé frá lýdum,
Olafur, sem var engum líkur
Á sinni Tíd ad fleirstri dád,
Gudrækni, trygdar, gædsku ríkur,
Geheime nefndur Etatsrád.

4.

Hvar var mannvinur meir'enn Hann?
Hverr meiti var ad Dygd og Svinnu?
Hvar fáum tignar fremri mann?
Hverr fremri var í lands umsinnu?
Hverr Sínum ædri upphefd veitti,
Sem óverdir ej vóru þess?
Hverr framar Land og Fólk vort skreytti,
Med frægd í sínum háa Sess?

5.

Hann prýddi Snilli, álit eins,
Audur og lánid vel med farid,

Hann æskti neinum aldrei meins,
Eptir því var Hans lucku varid;
Hann var frábær um fleirsta Sidi,
Fremstur ad Ættsæld nú á Tíd,
Hann kom anmstøddum opt ad lidi,
Umgengni Hans var mild og blíd.

6.

Míns er ei anda Minning Hans
Med verdugleikum uppihalda,
Verdur í sérhvers minni manns,
Margfeld Hans dygd um radir alda;
Einúngis mitt er Hann ad harmʼa,
Hann var, sem fleirum, gódur mér,
Søknudur Hans má Sorgar varma
Sífeldann gjøra Landi hér.

7.

O Tíd! O Tíd! Hann er ei meir!
Frá oss þú Hann í burtu leiddir,
En hverr einn gódur eptir þreyr,
Allir Landsvinir miklu sneyddir
Vóru vid missir Herrans háa,
Heyrdʼeg Hann lofa fleirsta menn,
Styrdja vissaʼ eg Hann stóra, smáa,
Styrkva, fátækaʼ og audga senn.

8. Hann

8.

Hans Andi nú í hædum býr,
Hefir þar Sældir óteljandi;
Hjá Gudi launud dygdin dýr,
Drottnar um eilífd lífs á Landi;
O Tíd! þú skalt þad aldrei banna,
Ad Honum þackad fáum þar
Velgiørdir margar, sem hin sanna
Sæld oss frá øldum búin var.



II.

Oflettvægt Laufblad
lagt á stórt Lik
sáluga Stiptamtmanns
Herra Olafs Stephensens,
af Jóni Presti Þorlákssyni.

Lagid: Hvar mundi vera hjartad mitt.

1.

Hugvekja sterk er, hverr sem deyr
Ad heyra þad og sjá.
Sem hjá oss verka má því meir,
Sem merkilegri er sá.

Þótt sérhvers erkislín sé leir,
Laungum finnst munur á
Hvernin í serk þeim tjá sig tveir,
Og til hvers Gud brúkar þá.

2.

Hvad má þess vegna heyrt eda sied,
Um hérød þessa Lands,
Hardara megni hræra géd,
Hærra, sem lægra stands,
Enn nýust fregn um Ná-fall skéd
Þess nafnfrægasta Manns?
Heyr, Videy! gégnum hærsta trjed
Hegg géck daudlegleikans.

3.

Þraut láng-gjæd Æsi, frægstum fylld
Framqvæmdum margskonar.
Samt yfirgnæfir Æra gyld
**Olafs Stephánssonar.**
Staklega gjæfan stødug og mild,
Stórmenni þessu var.
Sem vitrum hæfir vel med snilld,
Verdugt þad hana bar.

4.

Vor Yfirmadur innanlands
Ædstu bar tignar stétt,

Med

Med stjórn heidradur Stiptamtmanns,
Stundadi' og gjørdi rétt.
Besti Húss=Fadir, Bústjórn Hans,
Blessadist því svo ljett;
Hvervetna gladur ord og ans
Æ ljet til þægdar sett.

5.

Hyggindi vitur Herra þeck
Hjá sinni' ad efla þjód.
Med ydn og ritum undangéck,
Ei spardi þar til sjód.
Lærdómi, stritum, Lista=smeck,
Laun veitti jafnan gód.
Þeim hamlad bitur fátækt féck,
Í Fødur sporum stód.

6.

Hávegum Gramur hollann sér
Hann sæmdi stórum med.
En Hann stjórnsamur ávann hér,
Elskufullt þjódar géd,
Skilrîki tamur, skipan hver
A skynsemd byggjast réd;
Hvad, sem til frama heillum er,
Hann vildi jafnan skjed.

7.

Enginn var slíkur gésinn né gjørr,
Hjá Gardarshólma þjód,
Höfdíngi ríkur, hógvær, ør,
Sem hverjum gott af stód.
Hjarta bøl = mýkí hønd óspør
Hellt lét úr opnum sjód.
Nær mun Hans Líkur ná í før,
Nema sjálft Olafs blód?

8.

Skyldu lángmæli skíra þær
skínandi dygdir Hans,
Og þó ad gjæli' eg ángurvær
Eyrn full sérhvers manns,
Nei! því Hinn sæli nær og fjær,
Nafns hefir fegri krans!
Heidur, inndæli' og heill frábær,
Hann var síns Fødurlands.

9.

Líkhaminn hér til foldar fjór,
Med fjød af árum dó;
Hin Deildin sér til dýrdar fór,
Drottinn gaf bádum ró.
Lengst munu bera Land og Sjór,
Lofsthr, sem Hann sér bjó:

Hann

Hann var og er í heimi stór;
  Á Himnum stærri þó.

10.

Þó vanti Pálma-vegleg trje
  Við Hans að planta Beð;
Á stein og málm ei stimplað sé,
  Hvað stynur auðmjúkt geð;
Hugur minn fálmar hvarflandi,
  Til Hans þakklæti með,
Og elsku-sálm í æru sje,
  Inn til þess betur qveð.

11.

Með prýði glæstann Pálma-við
  Plantaði Hann Sjálfur þó;
Kríngum sitt læsta molda mið
  Í miðri lífsins ró:
Aðalmeið hærstum afsprengið,
  Æ verðugt þeim, sem dó,
Á Hans dáð nærstann heitum Nið
  Hér veita trega fró*).



*) Þessum 2ur seinustu hendíngum fann eg, sem Með-Utgefari þessarar Minníngar, mjer betur hlýða þannig lítið eitt að umbreyta.

M. St.

12.

Lifi þá qvedd í audmjúkt önd,
Þess ódaudlega Manns.
Fagnadar glødd vid frægri Lønd
Og fadm Ástkjærrar Hans.
Veglegum sedd af verkum hønd,
Værd hvílíst Líkamans,
Uns fegur rødd þau brýtur bønd,
Breytt í upprisu dans.



## III.

## Sorgar-Qvæk
eptir sáluga Stiptamtmann
Herra Olaf Stephensen,
frá Jóni Presti Westmann.

Lagid: Þjer, Drottinn! þacka eg.

1.

Sá færist fregn á leid:
Fólki ný sorg er skjen,
Drottinn tók burt med deyd
Sitt dýra nádar ljen,

Fróm-

Frómastann, frægstann Herra,
Stiptamtmann Olaf Stephensen.

2.

Fødurlaus fallid best
Forsvar, og Eckjur sjá;
Adþreyngdir athvarf mest;
Aumínginn syrgja má,
Landsmenn Vin, Velgjerara,
Hans vid andlát nú hriggvir þrá.

3.

Hvar betri Honum vær
Hittum? trúadri mann?
Hvers dygd lof fremra fær?
Fleirum hverr gott ávann?
Hverr klæddi hefdinglegar
Embættis-sæti sitt enn Hann?

4.

Veit eg ei nefna neins
Nafn til þess verdleikans;
Dýrmætur er, sá eins
Æru-spor fetar Hans;
J minni lof Hans lifir
A heims þó komi aldur stans.

5. And-

5.
Andinn alsøgnuð við,
Innbúum himins kjær,
Hjá Drottins hægri hlið
Helgri fullkomnun nær;
Í verðlaun verka Sinna
Ómælanlega farsæld fær.



## IV.

Einføld
# Eptirmæli
eptir þann mikla Herra,
Íslands fyrsta innfædda Stiptamtmann
Herra Olaf Stephensen,
í andmýkt framborin af
Gudmundi Jónssyni Møller.

---

Lagið er, sem við Eckju-ró.

I.
Ísland! ecka nægann,
Ættir bera þú!

Ept-

Eptir Födur frægann,
Fram hér lidinn nú,
Herra Olaf, Hann sem var.
Höfdingjanna heidur, ljós,
Og hátt af fleirstum bar.

2.

Hærstu valda heidur,
Hlaut Hans edla dád,
Ránglætinu reidur,
Réttvísina tjád,
Og krapt þann sýnt, er kénnir sú,
Lengi og vel oss hafdi Hann,
Hér med dygd og trú.

3.

Stiptamtmadurinn Stóri
Stephensen burt leid,
Ljúfur Lands Forstjóri,
Líkn þess var ad deyd,
Hans ei Líkann fyrr þad fann,
Enginn fremur unnti því,
Ellegar betur vann.

4. Still-

4.

Stilling', stjórnar prýdi,
Stórum veldum med,
Ástúd øllum lýdi,
Eins féck veslum tjed;
Lítilæti, ljúfast þel,
Hvad sem tigna Herra má,
Hann æ skreytti vel.

5.

Vísdóm vel hagnýtti,
Ad vinna Landi bót;
Bágstøddum útbýtti,
Björg Hans líknin fljót.
Um aldir Land vort engann bar,
Æfdari kjærleiks ýdju vid,
Enn sá Herra var.

6.

Mildi medur dómi,
Minning heidrar blíd,
Fridsemd fylgir sómi,
Farsæld grædir lýd;
Hann vid þessar bádar bjó,
Hjarta-

Hjartagódur, hógvær, þvi
Harmadur burtu dó.

7.

Lofar Hann lífsins Herra,
Laufn ad þreida fann.
Sorg fér þjódar þverra,
Þegar hún Stjórnar=mann
Hans jafnoka hljóta má.
Um aldir lifa mun Hans mæt
Minning lýdum hjá.



